# Fjølnir

og

# Eineigdi-Fjølnir.

„Her forevises et sjeldent Dyr"
Recensenten og Dyret.



Videiar Klaustri

1840.

Höfundur díralækníngabókarinnar lætur skamt á milli verda med ritgjørdir: hann hleipur land úr landi, og hreitir á prent sinni bókinni í hvurjum stadnum: stundum snír hann sjer ad vísindamønnunum, í því skini ad fræda þá, og audga vísindin. Aptur hinn tímann víkur hann tali sínu til alþídunnar. Valla var hann búinn ad sleppa frá sjer útá Holsetulandi bókinni „de lepra islandica" firr enn hann er þotinn til Íslanz, og búinn ad reka þar saman rit handa alþídu, sem hún kallar Eineigda-Fjølnir, væntanlega af því menn hafa strags á firstu bladsídunna ekki rennt nema øðru auganu; enn ad vísu fer allvel á því, ad þetta nafn lodi vid ritlínginn, so honum verdi ekki ruglad saman vid Fjølnir. Á firstu bladsídunni stendur þessu næst, ad ritid, er jeg sona í alþídu orda stad leifi mjer ad kalla Eineigda-Fjølnir, sje samantekid og útgjefid af Jóhni (Jón þikir líklega of audvirdilegt og íslenzkt) Hjaltalín, enn af ordunum sem þar á eptir koma, er ólærdum íslendíngum ekki gjefid ad skilja nema „Dr" og „útnefndum vid Hans Hátignar Koníngs vors eiginn Herlidsflokk" og mun þeim atlad ad ráda af því þetta tvennt: ad hann sje spekíngur ad víti og handgeinginn Koníngi; enda hafa margir, sem ekki bera greinilega skinbragd á málstäd hans, af þessum røkum látid sjer skiljast: ad þar sje madurinn sem bædi hafi kunnáttu og traust til ad sína þeim í tvo heimana, sem hvurugt þetta hafa vid ad stidjast.

Bókinni sjálfri er ekki so hægt ad lísa, þar kénnir so margra grasa; þad, er til einn flokkur af lesendum og rithøfundum, sem tekur allt firir góda vøru — heldur, ad til ad setja saman bækur þurfi ekki annad, enn ad tína sam-

an eitthvad, sem manni hugkvæmist, hvurnin sem fer um ad finna ordum sínum stad; einu gildi hvad skrifad sje, gjeti þad ad eins ordid áheirllegt lesendum og heirendum. Eineigda Fjølni er sona háttad; jeg þikist skilja, ad høfundur bókar þessarar hafi first eptir ad hann sitje fæti á landi heirt á rædur manna, og þád ad þeim gódgjørdir, því jeg þekki ærid mart ádur af því sem hann hefur tínt í ritid, og veit ad fedra þad, og ad því leiti hefur hann fátt af efninu lagt til af sjálfs síns forda; enn eptlrad þad datt í hann, ad fara ad koma því í bók, hefur hann af þessum efnum (Ingredienzer) einsog læknir, gutlad saman bløndu (Mixtur) til ad bæta þeim firir brjóstinu, sem óglatt var af Fjølnis vøldum, og jeg gjeri rád firir honum hafi tekist þad; ad minnsta kosti gat jeg ekki varist hlátri, þegar jeg hafdi tekid þetta medal inn, einsog vid er buid, efad þad er hlæilegt, ad einum verdi slísalega fótaskortur í því hann reidir sem hærst høggid, og þad álit hefi jeg á ritlíng þessum, ad jeg skildi strags, medan jeg er heill heilsu, leggja undir vid vitrínginn (Doctorinn) sem hann hefur saman sett (ef jeg ad ødrulelti gjæti treist því, ad hann hefdi gód tøk á lækníngum) ad fara med mig einsog ganta (narra) ef þeir kjæmu tímarnir, ad jeg sæi eingin missmídi á, ad láta slíka ritgjørd koma firir almennings augu frá minni hendi.

Pad er því ekki tilgángur blada þessara, ad telja høfundi Eineigda-Fjølnis hughvarf, eda spilla firir honum gledinni, sem hann hefur af því, ad hafa komid ritlíngi þessum á gáng; allt þesshá̇ttar held jeg mjer of vagsíd: jeg er firir laungu hættur ad eida ordum til ad leida slíka menn til vidurkjenníngar sannleikans, og ad vísu hefdi jeg goldid þøgn vid þessu riti, ef jeg hefdi mátt atla øllum lesendum þess nógann skilníng til ad sjá hvursu þad er af hendi leist. En jeg hefi ordid var vid, ad margir hafa líkt álit á því, og madurinn sudur í Leiru, sem sendi mjer kvedjurnar í sumar, þegar hann heirdi hvar jeg var — kvad menn nú hafa feingid bók í hend-

ur, hvaraf gjæti ad þekkja mig, og annad þeſshattar, ſem audinn gaf honum inn. Þó mer ekki hefdi veittſt ſú virdíng ad ſjá þennann mann firri, kom þetta ekki flatt uppá mig, því jeg hefi átt ad venjaſt því: ad þeim ſem er vel vid drikkju ſlark, er mørgum ílla vid Fjølnir, og vard jeg því ſtrags á máli hans: ad høfundur Eineigda-Fjølnis mætti njóta heill handa. Þá ſem áþekkt þeſsu hafa látid í villu leidaſt af bæklíngnum, og aldrei taka Fjølnir ſjálfann í hønd ſjer, held jeg ſamt ſkildu ad fræda med nokkrum ſkíríngargreinum um málſtad minn, og láta þadanaf hvurjum ſjálſt, ad leggja þann dóm á, ſem honum virdiſt rjettaſtur; því einsog mjer þikir máli ſkipta, ad þeir vadi ekki í villu, ſem láta ſjer annt um ad vita hid ſanna, og jeg vildi hafa til þeſs ſtudlad, ad hvur ritlíngur, ſem kjemur frá minni hendi, gjæti ordid til einhvurrar nitſemi; ſo læt eg mig aungvu varda, hvada dóm þeir leggja á mitt mál, ſem ekki gjeta ſjed ſannleikann firir heimſku, eda íllgirni.

Eineigdi-Fjølnir birjar med því, ad bregda mjer, og okkur, ſem átt høfum þátt í Fjølni, um þad, ad vid ſjeum ofúngir tilad fara ordum um lanzins gagn og naudſinjar. Þetta er nú þad vopnid, ſem altjent er vant ad grípa til firſt, ſem líka er von; því bædi er þad, ad þeir ſem beita því, gjeta opt haft ſatt ad mæla: ad þeim má atla betur í ſumu, ſem eldri eru, enda er mjer audſkilid, ad ef ſo væri áſtatt, ad lítid væri annad ad grípa til, þá irdi þad ad verda einka úrrædid, ad bera firir ſig aldurinn, þegar vid íngri menn væri í høggi ad eiga. Enn trautt lætur nokkur af þeſsari áſtædu ſannfæraſt, einsog hún heldur ekkjert ſannar, med því þeim fullordnu gjetur verid ſo margvíslega og ólíkt háttad; þeir, ſem ekki vilja ljá mjer eiru firir því ad jeg ſje of úngur, þeir eru aptur of gamlir firir mig. Enn ſo ógild ſem þeſsi áſtæda er, ſem tekin er af aldri manna, þarſem allt er undir hinu komid, hvad hvur hefur til ſíns máls, ſo verdur hún þó firſt ſkopleg, þegar farid er

ad vanbrúka hana, einsog hjer er gjert, þegar sá, sem reiðar er íngri, fer að bregða þeim um únggjæði, sem þó er eldri; að vísu hefi jeg aldrei sett á mig fæðíngardag vitríngsins, og það man jeg, að hann var orðinn stór að líkamanum til, þegar hann kom í skóla, enn so mun hann líka munna það, sem mjer virðist hjer ætti helst að taka til greina: að við áttum aldrei samleið í bókiðnum, því hann var ekki kominn í efri bekk, þegar jeg fór úr skóla, og — hvað sem hann hefur verið að gjera eptir það — varð hann ekki tilbúinn að fara utan firr enn sumarið 1834, og fór hann þá með sama skipinu, sem jeg kom heim á alfarið; enn hvurnin sem bókiðnum mínum hefur liðið síðan, þá er aptur hitt kunnugt: að hann hefur ekki ráðist í, að hleipa upp til firsta lærdóms prófs, nje heldur komist í Stúdenta tølu við Kaupmannahafnar háskóla, og iðnir hans eru lángtum fjær því, sem gjert er að umtalsefni bæði í Fjølni og Eineigða-fjølni, heldur enn mínar, þarsem læknisfræðin er það eina, sem hann hefur haft færi á að kinna sjer, enn þesskáttar kunnáttu verður ekki komið við í ritlíngi hans, nema í línunum um lækníngabók Jóns Pjeturssonar á 17du bls:, og, ef mønnum lítst, þarsem hann er að minnast á díralækníngarnar, í hvurjum hann mun þó ekki heldur orðinn vitríngur að nafnbót. Jeg gjet af þessum røkum ekki átt hjer tal um hann odruvísi, enn einsog mann, sem ekki hefur annað að seigja af vísindunum, enn það, sem hann numdi firir nokkrum árum í Bessastaða skóla, og nú mun að líkindum farið að firnast; og verður þá skiljanlegt, þó honum hafi ekki tekist betur að rita bækur, enn raunin hefur á orðið. Honum verður því fjaska opt á, að gjera rángar álíktanir — einsog þeim er tamt sem ekki hafa lært að hugsa (Logik) — reka sjálfann sig, og fleira þesskáttar, einsog honum verður líka sjálfum, að stranda á því flestøllu, sem hann finnur að við mig, sosem sjá má af mørgu, sem hjer á eptir kjemur.

A 4du blſ: Eineigda-fjølnis er mjer brugdid um: ad jeg ſje of fjølordur um ſama efnid, ſo þad ſje opt treint á heilar arkir, ſem komiſt hefdi gjetad á nokkrar bladſídur. Jeg gjet ekki rekid af mjer þeſsa adfindni, því honum hefur ekki þókknaſt ad færa ſonnur á ord ſín, med því ad víſa til, hvar þetta einkum á heima í bókinni; og ad ſo vøgſuu máli gjet jeg ekki ſjálfur fundid þad. Enn ef hann gjetur fundid ad þeſsu vid mig, þá hefdi hann átt ad vara ſig á því ſjálfann, og þad hefur honum ládſt eptir. Þad má kalla ad í hvurri grein Eineigda-fjølnis ſje verid ad tiggja á því ſama, mønnum til leidinda: ad Fjølnir ſje „einſínn", „ætliſt til menn þoli ſjer allt" — „ætliſt til þeir trúi hann hafi vit á øllu, og einginn ſkuli þora honum móti ad mæla" — „fari med vitleiſu — ógrundada ſlettudóma — óſannindi — þetta muni ſkriſad í nokkurskonar vitfirríngi — þetta komi af einſíni Fjølnirs — þad þurfi meira enn medallags óſvífni til ad fara med ſlík óſannindi — þetta ſíni ſávitſku Fjølnirs — þetta ſje hann (vitríngurinn) hræddur um ad komi af ſjóndepru Fjølnirs — þetta gjeti Fjølnir ſjed, ef hann annars ſje læs — þetta ſkuli hann vita, ef hann ekki viti þad firri — þetta fari eptir mørgu ødru, ſem hann gjeti aldrei fært ſønnur á" og aptur á ſømu opnu — „hann gjeri fólki ſmánandi gjerſakir, ſem hann gjeti aldrei fært ſønnur á" — „dæmi med heimſku og ſjálfdæmi (?) um þá hluti, ſem hann ekkjert ſkinbragd ber á" — „fari med lígi (ſem hann aldrei gjeti ſannad"!) og ſo fr. — Ef allt ſem er í ritlíngunum þeſsarar þídíngar væri úrfellt, færi ad verda lítid eptir; enn leſendur mínir munu búnir ad fá nóg af þeſsum þvættíngi, þó ekki tíni jeg til fleiri ſlík ordatiltæki. Enn þad er vídar, ad hann er ad ſtagaſt á ſømu ordunum: þad markar, á ad gizka, firir því, ſem hann hefur ſett ſaman á hvurjum deigi, ef litid er á, hvurnin farid er ad birja greinirnar; einn tímann er jafnan nídſt á ordunum; „nú er ad minnaſt á" — „nú er ad víkja mál-

inu" — „nú er ad snúa málinu" — „nú víkur Fjølnir máli sínu"; næsta daginn er verid ad þvætta á ordunum: „þegar Fjølnir er búinn ad afljúka sjer", enn einn daginn kjemur hvad eptir annad: „nú birjar" — „Fjølnir seigir ennfremur" — „ennfremur voru" og so fr: — Hvar sem gripid er nidur í ritlínginn, verdur þess vart, hvad gjarnt þessum manni er, ad vera ad stagast á því sama; menn virdi medal annars firir sjer, hvurju honum farast ord, þarsem hann er ad minnast díralækníngabókar sinnar: þegar hann ritadi „tjeda bók", var hann ekki eindæmur um þad, ad „bæklíngurinn væri allvel saminn"(!) og nú er kakkad saman — allt um sømu bókina — í einlægri flækju: „bókina" — „bókinni" — „bæklíng þennan" — „ádurnefndann bæklíng" — „ádurnefnda bók" „tjedann bæklíng" — „bók þeirri" — „bæklíngurinn" — „ádurnefnda díralækníngabók" — díralækningabókin." Er þetta ekki nóg á ekki fullu bladi, þarsem so er gisid prentid — allrahelst þarsem rithøfundur á í hlut, sem heldur þad „stærsta lof"! ad skrifa stutt og gagnordt? Hvad því ad sødruleiti vidvíkur, þá held eg ad vísu „meira lof" ad gjeta litid so á hvurt mál, sem ástædur eru til — eda ad segja satt; menn géta ástundum skrifad of stutt og gagnordt. Mér kémur til hugar, medal annars, þar sem í díralækníngabókinni er gjefid þad rád vid høfudsótt: ad snída strags af þann liminn sem hneigstar — nefnilega høfudid; Hjer eru þó bændur sem ekki verdur firir ad draga út sullinn, og græda so sárid á eptir, ad skjepnan verdi heil heilsu, og þikir okkur betri sú adferdin; þetta gjæti vitríngurinn feingid ad sjá, ef hann ljeti so lítid, ad koma inní fjárhúsin hjá okkur. Ef þad væri „mesta lof" ad skrifa stutt og gagnort, þá hefdi hann líka átt ad vera ánægdur med adfinning mína vid díralækníngabók haus, því hann seigir sjálfur bls: 13, ad hún sé stutt og gagnord, og finnur þó ad henni; er honum og nokkur vorkun — því heldur sem honum þikir væna um bókina — þó dott-

id hafi ifir hann, ad reka sig á hapa í Fjølni í flokki ónítu bókanna, og vita þó ekki, hvad hún hefur tilunnid, því þad var jeg skildur ad láta í ljósi. Enn þátturinn um bókmentirnar var í øndverdu ætladur 4da ári Fjølnis, en í eptirmælum sama ársins, sem enn eru óprentud, var gjetid díralækníngabókarinnar, og kvedinn upp sjálfs mín, og alþídu dómur um hana, og skal honum ekki breitt verda, þar til eptirmæli þessi koma á prent; vona eg þetta nægi til ad afsaka, ad jeg ekki tafdist leingi vid díralækníngabókina í þættinum um bókmentirnar, og hjelt nóg ad vísa henni til sætis á næsta bekk firir nedan Tídavísurnar. Enn þar sem jeg ljet í ljósi, ad díralækníngabókin væri gjefin út í ávinníngs von, þá læt eg mjer ad vísu skiljast, eptir því sem vitríngnum seigist frá skilníngsleisi presta á meinsemdum díranna: ad þad sje ofdirfska firir þá, ad gjøra sjer nokkrar hugmindir um díralækninga bækur (sem verid er ad troda uppá þá til kaups og sølu) — en jeg gjet enn, jafnlítid og ádur, ætlad høfund hennar svo grunnhigginn, ad halda, ad sjálfur hann sje fær um, ad skrifa, so vit sje í, um díralækníngar, strags og hann er farinn ad þefa af læknisfrædi, eda ad sona vagsin díralækníngabók gjeti komid ad notum almenníngi hjá oss, sem og, strags og bókin fór ad verda kunnug, lagdi þann dóminn á, ad ekki væri kostur ad hafa not af henni. Enn díralæknurum einum mun þó ekki bókin ætlud, enda mundu þeir ekki heldur gjeta mikid á henni grædt. Þá er hitt líklegra, þegar menn hroda af ljelegum útleggíngum (sem jeg atla ad takast mætti med þeim hætti sem hjer er gjert, þó ekki þekktu þeir hest frá nauti) — og smíkja sjer þó ad auki út peníngastirk til ad koma þeim á prent — leggja mikid upp, og selja þó med afarverdi, — ad þess sje helst á leit farid, ad hafa hag af því, og er þá nokkurt vit í þesshattar uppátækjum; og þessa ætlun hefi jeg um díralækníngabókina, þar til høfundur hennar leidir í ljós sterkari røk til þess, ad ødruvísi sje, því mjer nægir ekki, þó hann látist ekki hafa gjert þetta einúng-

is í ávinníngsvon, (hvarmed hann þó kannast vid, ad ávinníngs vonin hafi verid med í leiknum), ef hann ekki gjetur fært önnur líkindi til þess, enn þau, ad naumlega hafi verid keipt so mikid af henni, ad audvirdi þess sje nóg firir prentunarkostnadinn. Er þetta eitt dæmi þess, hvursu madurinn fer ad álikta, og gjetur ekki duliszt, nema einföldum, einsog mart gjeti ekki verld stofnad í ávinníngs von, sem ásídan verdur ad ávinníngsleisi, þegar mönnum nefnilega misreiknast — eins og nújer skilst hjer hafi tiltekist, og fer so þegar ekki á ad veidast. Efad þad ad ödruleiti er satt, sem hann seigir, ad nokkrir hafi hælt bók þessari, þá er hitt þó ad vísu ósatt: ad þad hafi verid vitrustu menninnir, nema þvíadeins ad þad hafi verid gjert í spotti, en hann hafi tekid firir alvöru; hitt er skiljanlegt, ad einhvurjir kinnu ad hafa hælt bókinni í eirn hans, þvert um huga sinn, sem höfdu þá þekkíngu á honum ad hann mundi gángast firir fagurgala og smjadri, en slíkt er þá ekki viturra manna háttur.

Þad er eitt, sem vitríngurinn finnur Fjölni til, ad hann reki sjálfann sig, og tilad gjeta fært álitleg líkindi til þess, hefur hann á nokkrum stödum hrifid ord mín útúr rædunni, og dreigid þau so á hárinu, ad þeir kunná ad láta sjer þetta skiljast, sem fara eingaungu eptir því sem hann lætur hjer um mællt. Enn ef þeir lesa þad, sem jeg hefi sagt, vona jeg flestum veiti hægt ad skilja hvad jeg fer, og verdi ekki varir vid, ad jeg reki sjálfann mig. Eda er þad ekki audskilid, ad því leiti sem firsta dæmid snertir, sem hann telur þessu til studníngs á bls 6, ad gudfrædisbókunum er ekki uldrad í sjálfu sjer, þó sagt sje, þær eigi ekki vid þessa tíma? Þær gátu verid vel lagadar tilad vera lestrabækur — og ad því leitinu gódar — þá þær komu first á prent, og þó nú á tímum ei ad sídur ósamkvæmar kristilegri uppfrædíngu, og firir því óbrúkanlegar, álíka og Jón Pjetursson, ad vitni Eineigda-fjölnis, „var merkur og duglegur læknir á sinni tíd“, þó bók hans — hvaraf þó einna helst mun meiga marka kunn-

áttu hans — sje med aumari vísinda bókum, sumstadar gagnstæd því rjetta, og ekki, samsvarandi voru tímabili. Mjer skilst hjer, ad ekki sje verid ad nidra læknirnum, þó rádin hans ekki þiki øll hlída nú á tíma, og eins virdist mjer standa á firir gømlu gudrækinisbókunum, þegar litid er til gudfrædinnar núna, og verd jeg ekki var vid, ad eitt af þeßu hrindi ødru. — Líkt er því háttad med næsta dæmid, sem tekid er af Hugvekjusálmum Hjaltalíns, ad jeg er algjørlega sjálfum mjer samdóma í áliti mínu um þá, því þad er lítil hrósun, þó jeg segdi, þeir væru, í samanburdi vid eldri gudrækinisbækur, ekki ílla lagadir til saungva, medan lesid væri í Stúrms hugvekjum, því jeg hefi aldrei ókad, ad þær væru hjer ævarandi lestrabók; og jeg vona, firstad Mynsters hugleidíngar nú eru komnar á prent, ad „val alþídu á bókum verdi hjereptir so vel tiltekid" ad farid verdi ad brúka þær til húslestra, ad minnsta kosti annad árid í stad hinna,. Munu þá og sálmar þeßir hafa lifad þad gladasta, first þeir hafa „komist í gott álit" hjá øllum skinsamari mønnum, því þó þeir ekki hafi tekid breitíngum, sídan þeir birtust á prenti, þá er eptir ad gjæta hins: hvurt tímarnir ekki gjeti breitst, eda breitt áliti sínu um gudrækinisbækur, eins vel og um lækninga bækur, og ønnur vísinda efni. Jeg sagdi þaradauki strags um Sálma þeßa, ad þeir hefdu litla skáldskapar snild eda andríki til ad bera, og þann dóm hefur austfirdíngurinn, í brjefi sínu, stadfest med nægilegum røksemdum.

Sama er ad seigja um þad, sem til er tínt bls. 25; þad rekur ekki hvad annad, t. a. m. ad finna ad því, hvad litid sje skrifad, og finna þó missmídi á því, sem skrifad er; því af þeßu leidir ekki annad, enn þad, sem jeg mælist til í øllum þættinum um bókmentirnar, ad mønnum nefnilega lærist ad vanda sig betur, og verdur þá aldrei ofmikid af gódu.

Þeßi eru helstu dæmin, sem tínd eru til marks um, ad jeg reki sjálfanu mig, og má, vona jeg, af þeßu sjá, ad

ekki gjæti þeſs, þegar orð mín eru ekki rángfærð; enn eingin gjetur duliſt við, að Eineigda-Fjølni, ſo ſtuttur ſem hann er, hefur furðu opt orðið á, að mótmæla ſjálfum ſér. Eru þeſs þegar talin nóg dæmi, ſoſem, þar ſem hann bregður mjer um únggjæði, og er þó íngri ſjálfur í mentunum — telur meſtu digð, að ſkrifa ſtutt og gagnorðt, og lætur ſjer þó ekki linda ummæli mín um díralækníunga bókina, ſem, að ſjálfs hans vitni, einmidt hafa þeſsa koſti — ſeigir það alla tíma hafa leigið í landi hjer, að níar bækur irðu firir mótſpirnu í firſtu: og furðar ſig þó á því, að Fjølnir hafi orðið firir mótſpirnu, og lætur ſjer af því ſkiljaſt, að hann bjóði mønnum ójøfnuð. — Þikir nóg lært í ſkólanum: enn þó ofætlun firir preſta vora, að botna í ſálarfræði Sibberns, ſem einmidt er ætlud þeim, ſem koma frá ſkólunum áðurenn farið er að læra guðfræðina, þar ſem því þó á að heita lokið firir þeim, ſem útſkrifaðir eru frá Beſsaſtaða ſkóla — og mætti mart fleira hjertil telja þeſsu líkt.

Í miðhluta ritlíngsins, blſ: 7 — 25 er hann að fara í kríngum þáttinn um bókmentirnar, og hafði jeg búíſt við, einsog við lá, að ſá ſem tókſt á hendur, að ſkrifa móti þeſsum þætti, mundi leitaſt við að hrekja eitthvað í honum með røkſemdum; en ſú von bráſt mjer: Hjer er lítið annað borið á borð firir leſendurna, enn fúkirði til mín, ſmjaður firir þeim, ſem hann vill eiga vingott við, og gremja ifir því, hvað ſjálfur hann ſje hart leikinn. Það er traudla nokkrum torſkilið, hvurju jeg fer fram í þættinum um bókmentirnar, (blſ: 91 — 96) viðvíkjandi málefnum prentverkſins, og hvað jeg hefi til míns máls. Mjer telſt ſo: að gømlu bækurnar verði uppfræðíngunni til hnekkis, að því leiti einkum, að almenníngur fíkiſt meſt í þær, enn það koſtar annarsvegar ſo lítið að koma þeim é gáng, að einginn endiſt til að gjefa út bækur, ſem til er vandað, firir jafnlítið — og eru þá tveir koſtir til: annaðhvurt að hroða af mín bókunum, eða hugſa ekki til að koma þeim á gáng, og láta menn

ſitja ad einum þeim bókum, ſem þar heſi jeg upptalid; og þó einſtøku bækur væru betri, hvarámedal hann telur Sunnanpóſtinn (ſem jeg líka heſi óſkad leingri aldurs, þó þad geingi ekki eptir), þá verda þær af hinum ofurlidi bornar. Hinar frædibækurnar, ſem Eineigdi-Fjølnir telur í ſkírîngargreininni bls: 8. Videiar Prentverkí til gildis ad hafa komid á prent, eru ad meſta hlutanum gjefnar út ad níu, eptirad þátturinn um bókmentirnar var tekinn ſaman, og gátu því ekki komid þeſsu máli vid; enn jeg vil lofa honum ad telja þær ſamt, firſt hann er ſo óvandur røkſemdum; enn vid því vil jeg gjøra hann varann, ad þeſsar bækur eru firir laungu alkunnar, ſo jeg veit ekki, hvurnin þær eiga ad fara ad koma mentuninni áleidis framifir þad ſem ádur var, þó þær ſéu prentadar ad nín óbreittar. Hvad koſtum ſumra þeſsara bóka vidvíkur, ſem Eineigdi-Fjølnir er ſo frá ſjer numinn af, þá vil jeg ekki eiga tal vid hann um þeſsháttar, því ordatiltæki hans og álit til og frá er mønnum gildur vottur um ſmekk hans; en þar ſem hann fagnar því, ad mønnum audniſt ekki ad ſjá Harmoniu endurbætta, þá mátti honum hugſaſt þad, ad þetta dæmi ſínir þad med ødrum fleirum, hvad erfidt ſje, ad koma nínum, eda lagfærdum bókum á gáng, þegar hinar eldri ſtanda í dirunum. Med diralækníngabókinni, einsog hún var af hendi leiſt, er loku firir ſkotid, ad diralækníngabók, ſem betur er vøndud, gjeti komid á gáng, þó einhvur irdi til ad ſemja hana, ſem meira hefdi ſkinbragd á hvad til þeſs heirir. Þeir eru líka ſkjaldgjæfir hjer í landi, ſem eins verdur lítid firir ad ſetja ſaman og gjefa út bækur, einsog høfundi Eineigda-Fjølnis. Firir þeſsum athugaſemdum hans um bókmentirnar, er því ſamt ekki hrundid, ſem mín ætlan er, ad ef þeſsu hefdi í øndverdu, medan því mátti margvíslega firirkoma, verid rádſtafad eins og jeg heſi bent til, þá hefdi ſtiſtanin tekid meira í adra hønd, enn leigunni ſvarar, ſem búid er ad draga ſaman þeſsi árin, enn undireins gjetad ordid komiſt hjá ſo mikilli van-

brúkun til þnekkis uppfrædíngunni, sem leidt hefur af slíkri rádstöfun, án þess nokkur þirfti ad verda firir halla eda rángindum. Þad er eingin furda, þó forstødumadur prentverksins láti þad koma á prent, sem útgeingilegast er, ef hann er ekki vísindamadur, enn slíkum manni er, ad ætlun minni, of vodalegt ad fá þessháttar vopn í hendur, því medan þad er undir opinberri stjórn, sosem þjódeign, og hefur ímisleg hlunnindi vid ad stidjast, sem ødrum eru firirmunud, held jeg því sje nokkud meiri vandi á hendi vid landid, og meira sje af því heimtandi, enn ef þad væri eins manns eign, einsog t. a. m. Hrappseiar prentverkid fordum. Þessvegna er þad ekki heldur furda, þóad ransóknin (Kritiken) leiti sjer ad finna ad þessari vanbrúkun, einsog hvurri annari, því þad er køllun hennar, ad leida í ljós þad sem sannast er, hvurt sem þad vidkjemur prentverki, rímum, tídavísum eda ødru. Mjer er ókunnugt, hvada vidleitni forstødumadur prentverksins, sem nú er, hefur haft á, ad fá gódar ritgjørdir til prentunar, enn ad minnsta kosti hefur hann aldrei bodid mjer ad prenta ritgjørdir á sinn kostnad, og enn sídur haft um ord, ad þægja nokkru firir handrit. Enn ef sá madur sjer sjer ekki fært, ad rádast í neitt þesshátter, sem á ad stidjast vid ávinnínginn af eldri bókunum, og hefur erindisreka til og frá um allt land, þá má gjeta nærri, ad ødrum útífrá verdi sídur ad lidi, ad koma firir hjá honum bókum til prentunar, ef þeir eiga sjálfir ad gjefa á þær, medan prentunarkostnadurinn er lángtum minni utanlanz, undireins og þadan veitir hægra ad koma bókunum frá sjer til annara fjórdúnga lanzins. Enn þarsem Eineizdi = sjølnir gjefur í skin, ad ekkjert feingist prentad í Videi, sem gagnstætt sje prentunar løggjøfinni, þá skjátlast honum heldur. Forstødumadur prentverksins hefur, ad minni vitund, aungva køllun til ad „sprogsetja" (censurera) bækur; þad er líka mála sannast, ad jeg veit ekki til hann hafi lagt þad í vana sinn.

Fjølnir hefur aldrei lagt í einellti það sem gamalt er, því honum er vel við allt sem gott er, hvurt sem það er heldur gamalt, eða nítt. Þessvegna hefur hann drepið á mannfræði eptir Pølitz meðal þeirra bóka, sem honum virð- ast fallnar til að útleggja, meðan ekki eru frumrit sama efnis, að hann þekti ekki aðrar um þetta efni, sem tæki henni fram *, því það ber margopt til, annaðhvurt: að millibil verði á því, að níar fræðibækur í einhvurri vísinda- grein komi í ljós, eða þá: að þær eldri sjeu so vel af hendi leistar, að þær falli ekki strags úr gildi, þó níar birt- ist. Meðal þeirra bóka, sem jeg hefi talið góðar, og þó „flestum sem vit bera á, munu þikja ljettvægar", telur vitr- ínguinn þessu næst Sibberns Sálarfræði, og var það ó- happ hans, að hann hitti hjer einmidt á so þjóðkunna bók, sem þeir, er iðkað hafa vísindi við Kaupmannahafnar há- skóla, núna uppí framundir 20 ár, munu eiga einna mest gott að þakka; og er það til marks um hvað mikill fræði- maður hann er, sem og líka hitt, að hann skuli þá ekki hafa kjennt okkur að þekkja betri bækur í þessum fræðum, enn báðar þessar bækur eru, því, úr því hann telur það til marks um heimsku mína, að jeg hafi tilnefnt þær, skildu menn ei hafa ætlað, hann irði að láta lenda við það: að „án efa" sjeu margar nírri betri, þar sem hann þó ekki veit að nafngreina neina. Þeir sem að øðru leiti bera skinbragð á, hvað teingd sálarfræðin er guðfræðinni, gjeta ráðið í, hvað vel þeir mundu að sjer í guðfræði, sem ekki þekktu meir til sálarinnar, enn hjer er gjert ráð firir; eða mundi læknirnum, (að jeg taki dæmi, sem vitríngnum kinni heldur að skiljast,) koma að miklu haldi, þó hann þekkti fjølda af meðølum, ef hann hefði aungvann skilníng á bigg- íngu nje eðli mannlegs líkama (Anatomie nje Physiologie)?

* Sama má meðal annars sjá af Niemeyers Erziehungslehre, 7du útg. Halle 1835 II. B. bls: 267.

Því er og betur, ad prestar vorir munu reinast skilníngsbetri enn Einrigdi-Fjølnir hjer atlar þeim.

So hátt reidir vitríngnrinn høggid, þegar kjemur til lækníngabókar Jóns Pjeturssonar — einsog líka vid var búid — ad jeg mætti hrøkkva allur sauan, ef þad gjæti nád til mín. Enn bótin er, ad jeg hefi um bók þessa, sem jeg taldi medal nitsamra bóka, adeins tekid mjer í munn ord þess manns, sem ekki verdur brugdid um þekkíngarleisi í læknisfrædi, og sjálfur hann á fortakslaust ædi mikid ad þakka af því sem hann veit um lækníngar — enn þad er landlæknir okkar, einsog sjá má af formála bókarinnar; hefur hann og, einsog kunnugt er, ásamt handlækni S. Pálssini, bætt mørgum skíríngargreinum vid bókina. Af lækníngum sjálfs vitríngsins hefur almenníngur hjer ekki stórum annad ad seigja, enn hvursu þær gáfust í sumar, og þikjast menn ekki í annaun tíma hafa farid ølln meira flatt, nje von sín hafa heldur brugdist, sídan „Jóhn" heitinn Saungur — silkivefarinn, átti leidir hjer um, þá hann ljezt búinn til utanferdar hjerna um árid. Þegar þad var ordid hljódbært, einsog honum sagdist frá, ad hann hefdi lært ad vefa klúta í betrunarhúsinu, ruddi kvennfólkid í hann fásjenustu silkiklútunum, sem þad átti, til ad vefa eptir; enn so fóru leikar, ad þær þóttust gódu bættar, sem heimtu klútana aptur, einsog von var, því utanferdin slóst af, enn vefarinn hafdi gleimt ad flitja híngad med sjer áhøldin. Þegar almenníngur heirdi í sumar, ad híngad væru komin medøl slík frá Englandi, og frá ímsum løndum útum heim, sem aldrei væru firri sjed á Íslandi, og ad allir sjúkdómar væru honum undirgjefnir — lækningum, sem hefdi þau til útbítíngar, var von ad fólkid þirptist ad honum; enn ekki hefi jeg søgur af ad nokkrum hafi batnad, sem hann lagdi hendur ífir. Ad minnsta kosti tókst honum so med augun í manninum úti Arnes-síslu, ad lítil von er honum andnist ad lækna sjónardepru Fjølnis. Honum mun og rein-

ast so, ad þad þurfi meira til ad vera til leingdar álitinn duglegur læknir, heldurenn ad lofa mønnum heilbrigdi og selja þeim medøl.

Pad fer fjærri því, sem Eineigdi-fjølnir tvíveigis gjetur til, ad jeg hafi fundid ad Sunnanpóstinum til hefndar firir þad sem í honum stód — vidvikjandi Fjølni; því bædi er þad: ad jeg álít øllum frjálst, ad láta í ljósi hugsanir sínar á prenti, sem ástædur hafa ad bera firir sig, og jeg nota mjer af þessu frelsi sjálfur; ekki heldur var þad tiltøkumál, þó Sunnanpósturinn segdi álit sitt um Fjølnir, og gat mjer aungvanneiginn gramist þad, hvursu hann fór ad því. Brjefid borgfirdíngsins var med því bezta sem Sunnanpósturinn hafdi medferdis, og jeg sendi strags útgjefendum Fjølnis athugasemdir mínar þaradlútandi, sem jeg atladist til prentadar irdu í 4da ári hans. Er handrit þad í Kaupmannahøfn, og gjetur verid vottur þess, hvurt mjer hafi gramist adfindni Sunnanpóstsins. — Hinn ritlíngur Sunnanpóstsins, sem Fjølni vidkom — Arnabjørn og Jeg — kom mjer ekki vid, enda fór hann, ad minni ætlun, heldur grunnt í málid, tilad taka sigurinn frá Stafsetníngar-þættinum, einsog raunin mun á verda þegar framlída stundir. Pad verdur ad vísu ekki látid bitna á mjer, þó brjefid austfirdíngsins væri prentad í Fjølni, því jeg vissi ekki af því ad þad var til, firr enn jeg sá þad prentad; enn Eineigdi-fjølnir gjetur rjett í vonirnar, ad jeg hefdi ekki, heldurenn adrir útgjefendur Fjølnis, verid mótfallinn því, ad þad irdi prentad, þó jeg hefdi þekkt þad ádur; og mjer þikir ekki firir ad kannast vid, ad þad hafi gladt mig med tvennu móti, því first var þetta: ad brjefid lísti því sjálft, ad þad ætti kin sitt ad rekja til einhvurs þess vísindamanns, sem ekki þirfti ad standa á baki þeirra, sem best eru kalladir ad sjer á Íslandi nú á tíma — og firir þá søk gat Fjølnir ekki heldur varnad því inntøku. Enn þad var annad, sem mjer hlaut ad þikja betur enn ekki, ad komast ad raun um, ad þeim manni gjedjadist ad Fjølni,

er slíka køllun hefur til ad leggja dóm á ritgjørdir. Pad er heldur ekki nístárlegt, eda hneigslanlegt, ad Tímarit augl'sí á prenti brjef, sem þeim eru skrifud, ef útgjefendunum þikir þau adeins ad efninu og medferd þess verd ad koma almenníngi firir sjónir — hvurt sem þau so vidkoma Tímaritinu sjálfu, er lætur prenta þau, eda ødru, og hvurt sem þau eru medmællt því eda ekki, því sje efnid, sem prentad er, ámóti ritinu sjálfu, sem tekst á hendur ad prenta þad, er þeim, sem gjefur út, innanhandar ad hrinda því, ef hann gjetur, enda gjetur hann máskje ekki, þó hann vildi víkja því frá sjer, meinad því ad koma firir almenníngs augu ad heldur.

Fjølnir finnur ekki ad því, þó Arna-postilla komi á prent í annad sinn, því hann hefur látid ásannast, ad bókinni væri mart vel gjefid, og vildi helst, ad hún væri í hvurju húsi; enn af því hann þóttist sjá í anda, ad hún ætti í vændum ad verda prentud ad nίu, átti ekki illa vid, ad hann dræpi helst á þad, sem, ad hans ætlun, gjæti ordid bókinni til lagfæríngar, og enn meiri fullkomnunar. Ef hann nú hefur gildar roksemdir ad bera firir sig, þá er þad sambodid adferd vísindamannanna, ad taka þær til greina, hvur sem í hlut á, enn ef ekki, þá ad láta þær land og leid, eda hrinda þeim, enn hvad sem af þessu af er rádid, verdur ekki komist hjá, ad gjefa gaum ad því, sem ad er fundid, so þad tjáir aldrei ad þikjast af því, (eins og Eineigdi-fjølnir gjerir) ad þad hafi ekki verid gjert. Hann hefur ad ødru leiti ekki reint til ad hrinda nema einu af því, sem jeg hefi látid mællt um bók þessa, enn af því gjeta menn samt rádid, ad hann sje fremur tæpur í kristinndóminum, því medallagi skilíngsgott barn gjetur leist úr því, er so hraparlega flækist firir honum, ef þad, eins og jeg vjek á, hugsar eptir 4du greininni í 5ta Kapit: Lærdóms bókarinnar (um einkjenni hinnar sáluhjálplegu trúar) og ber hana t. a. m. saman vid ræduna á uppstigníngardag í

Postillunni (hvar hinni almennu gudrækilegu trú er líst eptir Hebr. 11, 1.) Pésis ræda er t. a. m. ad miklu leiti samferda Dr. Mynster í 37du hugleidíngu hans, þartil lídur framundir endann, ad hann fer nokkud leingra á 324 bls: Á þetta er og stuttlega vikid í sömu bókinni bls: 125—26.

Hvad kjennsluna í gudfrædinni í Bessastadaskóla áhrærir, þá hefur Fjölnir hjer, eins og vídar, vikid á þad eitt, sem honum virdist lagfæríngar þurfa, enn geingid fram hjá hinu, sem annadhvurt fer betur, eda erfidar er ad ráda bót á. Jeg hefi adeins átt tal um kjennslu-adferdina, (Lære-methoden— Formen) enn á efnid sem kjennt er, (Lærestoffet — Materien) hefi jeg ekki minnst, er þó vardar mestu; og þó þad nú reindist so: ad adferd eda sögun kjennslunnar mætti koma ódrjúgvísi firir, soad tilgángínum irdi heldur framgeingt, þá sjá allir, ad ámedan ekki er tekid dípra í árinni, gjetur nóg verid ad stidjast vid annad, enda láta sjer ekki adrir um þesshattar finnast, enn þeir sem annadhvurt eru so sjergódir, ad halda einginn gjeti sagt þeim til, eins og þeim gjæti ekki verid í neinu áfátt — eda so einfaldir, ad halda ad þad gjeti mínkad stórum nokkurn mann, þó honum hefdi ekki allstadar jafnt tekist ad þræda þann veiginn sem greidastur var — og ad þeim sem í embættum standa hvurki gjeti ifirsjest, nje heldur meigi ad þeim finna; og ad vísu held jeg mjer frjálst, ad seigja álit mitt um kjennsluna í Bessastada skóla med þeim hætti sem jeg hefi gjert, þó jeg sjálfur hafi notid þar kjennslu, og gjeti þannig borid um hana af reinslu sjálfs mín, enda seigir Eineigdi-fjölnir og: ad jeg hrósi á endanum kjennaranum. Enn þarsem hann telur þad til marks um kunnáttu mína í gudfrædi, hvursu pilltunum reiddi af, sem frá mjer fóru í sumar til ifirheirslu ad Bessastödum, þá vantadi ad sína undireins: ad jeg hefdi leidbeint þeim í gudfrædinni, og verid ánægdur vid þá, enda ad allskostar óhult sje ad fara eptir því, hvada álit menn fá í Bessastadaskóla, medan ifirheirslunni er hagad eins og nú tídkast, í sumum vísludagreinum

unum — og verdur hier ad fara nokkrum ordum um þetta mál, þó mjer hefdi verid þekkast, ad gjeta leidt þad hjá mjer algjørlega:

Þad er kunnugt nokkud, hvad lítid þurfti til þess firir nokkrum árum, ad menn þættu færir ad útskrifast — Efad þad tókst ad koma únglíngum firir, annadhvurt í heimaskólum, eda í Bessastadaskóla, og þeir, sem ad þeim stódu, endtust til ad lúka í nokkur ár medgjøfinni, sem áskilin var, þá bar þad valla til, ad þeir ekki nædu ad útskrifast eptir leingri eda skjemmri tíma lidinn, og var þadanaf skjaldan mjøg tekid til greina, hvurt slíkir vóru vel ad sjer, eda ekki. Utskrifanir feinguſt þannig ad kalla firir peninga, álíka og firirgjefníng sindanna á páfa-øldunum, soad ei einúngis hálfvitrum — heldur og jafnvel hálfvitum líka — var gjefid lausnar brjefid — ef ekki á latínu, þá á dønsku eda jafnvel á íslenzku, líklega til þess hægra veitti ad komast ad efninu. Lærdómsmennirnir streimdu útúr heimaskólunum, ef skólinn tók ad gjørast heimtufrekari, so hann vard líka ad prenta allt, einsog prentverkid í Videi árin þau sem hættast var vid gømlu bækurnar irdu prentadar utanlanz annarskostar. Jeg heiri sagt, ad høfundur Eineigda - fjølnis sje einn af þeim, sem stukku úr skólanum firir tímann, so slett irdi á hann fararleifi úr heima skóla. Má af því ráda, ad Bessastadaskóla og honum hafi á þeim árum ekki komid vel saman! Þegar lítil hemja var ordin á þessari vanbrúkun, var þad, eptir undirlagi lanzifirvaldanna, leidt í løg: ad þeir, sem í heimaskólum hefdu lært, væru skildir ad láta sig ifirheira opinberlega ádur þeir feingju adgáng tilad sækja um kjennimannleg embætti, jafnt hinum, sem útskrifast hefdu úr skólanum. — Medan þetta var ad komast í kríng kastadi tólfunum. Þeir sem firir heimaskólunum rjedu, hjeldu rád, ad koma lærisveinum sínum undan þessum frædalestri, og ruddu þeim út, einsog bezt vard, líkt og bánkasedlunum firrum, þegar sá kvittur kom upp ad þeir mundu falla; vóru þá,

so árum skipti á eptir, sumir að barma sér um: hvað lausnarbrjefið væri leingi á dofinni — því allt varð að hafa í pukri — aðrir, að prjedikunarlesið væri ófeingið, og so fr. Sunnanpóstinum hefur láðst eptir að fræða um það, hvursu bættst hafi landinu vísindaldkendur firir tilstilli heimaskólanna þessi árin, þegar hann gjetur þeirra, sem út hafa farið úr skólanum um sama leitið, og er þó fróðlegt að vita nöfn þeirra — og þeirra sem fræddu þá. Eptirað nú breitíngin komst á þetta, var Bessastaðaskóla falið á hendur að skamta gánginn, og kveða á, hvað mikillar kunnáttu þirfti við, tilað gjeta útskrifast. Var þá annaðhvurt, að hafa strags frammá fullann stráungleika, eða birja á því, að beita honum við þá elna, sem eptir þetta fóru að læra, enn slá first um finn heldur úr höggi við hina, sem leiðst höfðu til bókiðna meðan ekki þurfti að ugga um lokin, hvurnin sem í garðinn var búið, og búnir vóru að tefjast leingi við lærdóm, og leggja so mikið í sölurnar, þegar hin nía skipanin var gjerð hjerá, að ei varð leingur við snúið að óreindu, því það mátti atla: að á þeim tímum hafi margur sá verið tekinn til kjennslu, þegar mest var undir því komið, að meðgjöfin væri vel af hendi greidd, sem ekki hefði verið ráðist í að kjenna, eptirað fleiri tóku að hafa hönd í. Enn hvurt sem menn í þessu híngað til hafa farið nokkurri reglu fram eður aungri — nema hugþótta sjálfs sín í hvurt skiptið, þá verður það ei rekið, að þessi rannsókn hefur þángað til í sumar verið gjerð með stakasta linleika og eptirgjefni.

Pilltar þeir, sem hjer eru umtalsefnið, vóru búnir að fást við lærdóm marga vetur, þegar hin nía skipanin hófst, og þeir höfðu eptir það ár eptir ár, dæmi ímsra, er þeir þekktu, firir sjer í því, hvað ótrúlega þeim fleittist af, sem sendir vóru til ifirheirslu að Bessastöðum; þótti því ófært að gjefa frá sjer, sem von var, eptir að annar þeirra var búinn að vera við lærdóm 9 vetur, enn hinn 7, þegar

kjennifadir þeirra, sjera Þorvaldur sálugi Böðvarsson varð að sleppa þeim haustið 1836, skömmu firir andlát sitt. Enn sem þeim varð hvurgi komið niður, og sona var í öll skjól fokið, gat jeg ekki staðið af mjer bænir foður þeirra, og hjet að taka þá einn vetur, því heldur, sem í mæli var, einsog líka líkindi voru til, að þeir mundu ekki þurfa á leingri tilsögn að halda. — Mjer reindist að vísu skjótt, að hvurki væru þeir so lagaðir til bókiðna, sem skildi, og ekki heldur komnir að endanum, og jeg sagði það foður þeirra, að þeir mundu seint verða so að sjer, að þeir ættu skilld að verða útskrifaðir, eptir áliti sjálfs míns um það, hvað af slíkum væri heimtandi, enn sama álit hafði jeg að vísu á heimaskóla uppalningunum flestum, sem Bessastaða skóli hafði álitið í náð, og gjert að Stúdentum. Jeg var því ekki í minnsta máta hvatamaður þess, að haldið væri áfram, og afbað mjer strags alla ábirgð á því, hvuru enda þetta kinni að hafa; enn það var að hinu leitinu varlega gjerandi firir mig, þegar í þetta efni var komið, að aftaka með öllu hvað takast kinni, þarsem jeg var að reka mig á það með ári hvurju, að það sem firir mjer var ómögulegt, var mögulegt firir þeim, sem dómjnn skildu uppkveða. Og sem nú faðirinn enn vildi kaupa litla von með miklum kostnaði, og þó jafnframt þurfti að sjá firir einhvurn enda á þessu, lagði jeg helst til, soað allt væri fullreint, að þeir enn einn vetur væru látnir hafa færi á að ifirfara það, sem þeir ættu ólesið, og annann tilað rissja upp allt það, sem hafa þirfti til ifirheirslunnar. Jeg gat — því miður — margra hluta vegna, ekki hafst tilsögn þeirra þessa veturna, og kom þeim því firir í líklegasta kjennslustaðinn, sem jeg gat náð til, enn varð þó að undirgángast að búa til handa þeim vitnisburðarbrjefin, þegar að því kjæmi, að fara ætti að reina þá í skólanum. Þó hjer væri til lítillar sæmdar að vinna, nennti jeg ekki, úr því jeg einusinni var orðinn riðinn við þetta mál, að færast undan því, þegar ekki stóð á öðru, og þeir

gátu þó ekki orðið ifirheirðir annarskostar; ljet jeg eingin önnur rök mæla með pilltunum, enn þau, sem mjer virðast einhlít, að þeir hefðu náð annari eins þekkíngu, einsog heimtuð hefur verið að undanförnu af þeim, sem jafnt stóðu að, og tilað sanna þessa sögu mína. bið jeg hvurjum, sem vill, að taka undir skoðun þann eina þeigjandi vottinn, sem til er um þetta, þarsem er latínusmíðið annars þeirra veturinn, sem hann dvaldi hjá mjer, firir tveimur árum, því ef sú verður raunin á, að lítið hafi þurft að lagfæra, og stundum ekkjert, held jeg hann gjeti ekki verið skilníngslaus. Honum reiddi þó í sumar ekki betur af í þessu, enn öðru, sem ekki var heldur furða, því hann var í sumu öðru álíka fær; enda kom hvurki mjer til hugar, nje heldur þeim, sem tók við að kjenna honum áeptir mig, að hann gjæti orðið gjerður rækur; enn jeg bjóst ekki heldur við, að þeim irði sett það firir, sem eptirá irði að dæma ofþúngt, nje að menn væru so sokknir niður í Fjölnir, að þeim irði að velja þaðan grein til stílgjerðarinnar, þó hann bærist þessa dagana suðurá nesið. Hitt var líkara, að einhvurjir sem í dómnum sátu, og so vel hafa geingið fram í að auka hóp bóknámsmannanna, hefðu nærgjætni tilað líta á, hvurju fram hefur farið núna í nokkur ár, áður þeim litist að snúa so hastarlega við blaðinu, að gjera tvo bræður hlífðarlaust ræka í einu, eptir frábærustu ástundan og kostnað í 12 ár, sem, einsog nærri má gjeta, var búinn að fara með mestallar eignir foreldranna — af bænda stjett, með fjölda annara barna. — Efað því ransókninni hefur verið so liðlega firirkomið, að hún gjæti látið gánga úr öllum skugga um, að hvurugur pillta þessara hafi til betra unnið, enn þeir vóru látnir bera úr bítum, þá bera þeir þó, sem dóminn feldu, ætíð sökina um það, að hafa leidt menn í villu með óþeirilegri hlífðarsemi að undanförnu, og rætist hjer forna orðtækið: summum jus summa injuria *.

* Þó jeg haldi nú af þessu meigi sjá, að jeg hafi átt-þann eina

Pad sem Eineigdi: fjølnir lætur rædt um kaupverslunina, bls: 22—24, er einkum eptirtektavert af því, ad þad

hlut í þessu máli, sem mjer gjeti ekki ordid stórum til minkunar, held jeg rjettast, til stirkingar því, sem hjer er sagt, ad láta prenta ordrjett vitnisburdarbrjefin, sem pilltarnir höfdu frá mjer sudur til ifirheirslunnar; þó verd jeg ad bidja þá, sem vit hafa á, ad hneigslast ekki á því, þó ordsærinu kunni ad vera nokkud ásátt, því þessu var hreitt á pappirinn í skindingu medan pilltarnir stódu vid, komnir á sudurferdina — enn jeg þá sjálfur adkominn og svesnþurfi; enda hefi jeg til latínusmída ekki so mikid sem Nucleus ad stidjast vid, og held raunar, menn gjeti fundid sjer þarfari sisslanir, enn ad tefjast vid þessháttar idnir, allrahelst medan þeir ekki flota sjer í módurmáli sínu, sem þeir eiga ad brúka daglega. Pad er enn, ad mjer kom minnst til hugar, þegar jeg var ad koma saman vitnisburdum þessum: ad sú virding mundi eiga firir þeim ad liggja ad birtast á prenti. Enn þeir eru soláandi:

## No. I. P. M.

*Natus est Olavus Magni filius anno* 1814, *in villa rustica, Leiris, in topurchia Rangarvallensi, patre reppagogo bene merito, Magno Sigurdi — matre Anna Magni filia; qvi parentes cum filium summa cura educare vellent, anno* 1827 *viro dexteritate docendi notissimo, jam defuncto Præposito Thorvaldo Bödvaridæ tradiderunt, litterarum rudimentis imbuendum. — Hic, nonnullis qvidem longioribus intervallis exceptis, mansit, usqve dum beatus ille heros, mortem præsagiens proxima mense secutam, mense Octobri anno* 1836 *munus suum docendi deponeret; et cum juveni ita spes erepta esset studia litterarum tantis sumtibus — tanta temporis jactura incepta atqve continuata absolvendi, ejus misertus sum, hocqve eo magis, qvod ad litteras natura ferri, jamqve ultimum stadium cursus scholastici percurrere diceba-tur. — Cum vero per semestre brumale, qvod apud me transegit, sentirem ipse, præparatione magna opus esse, antequam examen dimissorum sustinere posset, pastor Asmundus Jonæus, precibus meis adductus, juvenem accepit, et duas adhuc hiemes dili-*

hefur dunnið bók þessari síka hilli hjá einum sølumanni í Reikjavík, (sem að øðru leiti er lítt kunnur að elsku til bóka,

---

*gentissime informavit. Huius igitur docendi sollertiæ debetur, qvod jam dimissione non indignus nobis videatur, legit enim in auctoribus latinis:*

*Cæs: de bello gallico libr.* 1 — 5. — *Ciceronis orationes pro Roscio et lege Manilia, et ejusdem libros de officiis.* — *Horatii odarum libr.* 1—2. *et artem poëticam.* — *Virgilii Æneid. libr.* 1—2.

*In auctoribus græcis: Xenoph. Anabas. libr.* 1—3. — *Platonis Apol: Socrat; et Dial. Kriton. Homeri Odysseam libr.* 1—12. — *Evangelium Marci et Pauli epistolas ad Thessalonicenses.*

*In cæteris disciplinis secutus est compendia in scholis doctis usurpata — in religione Fogtmanni, in Arithmetica et Geometria Björnonis — in Geographia Risii, in historia, (qvam difficulter admodum tenet) imprimis epitomen Werlauffianam historiæ Kallii.*

*Ingenio præditus est sat felici — imprimis vero summa sua industria, tranqvillitate, animiqve candore omnium animos sibi vindicavit, et vindicaturus est; qvare eum omnium, qvotqvot bonum amant, favori ex animo commendamus.*

*Breidabolstad d.* 8. *Junii* 1839.

Tomas Sæmundi,

(L. S.)

## No. II. P. M.

*Sigurdus Magni filius natus est Leiris, qvod prædium est in toparchia Rangarvallensi — anno* 1811. *Patrem habet Magnum Sigurdi — matrem vero Annam Magni filiam. Adolescens cum desiderium litterarum nasci sentiret; patre annuente, ex anno inde* 1830 *variis usus est magistris, qvorum factum est auctoritate, ut viam litterarum proseqveretur. In his viris doctis nominare licet Præpositum Thorvaldum*

eður rausn við Íslendínga, nema ef vera kinni hann hafi rjett að einhvurjum brennivínsstaup eða tóbaksmola), að hann

---

*Bödvari, apud qvem qvinqve annos transegit. Cum vero ad finem anni* 1836 *discederet optimus hicce magister, et cum eo omnis exstingverctur spes juvenis — nullo scilicet, ubi discere posset, loco reperto — precibus lacrimisqve parentum adduci me passus sum, qvi eum per unius hiemis spatium in domum meam reciperem, dum tentatum esset, si forte metam jam jam tetigisset. Eqvidem experiebar hoc ita non esse; cum autem spem tot annis, tantis impensis nutritam re intentata deponendi, litterisqve valedicendi auctor esse non possem: satius visum est, optimum, qvem novi, discendi locum ei procurare, qvo per biennii spatium facultas adesset, ignota qvæ restabant, cognoscendi, lectaqve percurrendi. Has docendi partes suscepit Pastor Oddensis Asmundus Jonæus, cuius cura et studio factum est, ut cursum, qvi in scholis doctis traditur, perlegerit relegeritqve. Cum igitur legerit:*

*ex scriptoribus latinis: Cæs. de bello gallico lib,* 1—5. *Ciceronis orationes pro Roscio Amerino et lege Manilia, et ejusdem officia, Horatii Odar: libr.* 1—2 *et artem poëticam. — Virgilii Æneid: libr.* 1—2,

*ex scriptoribus græcis: Xenoph: Anabas: libr.* 1—3. — *Platonis Apolog: Socratis et Kriton. — Homeri Odysseam libr.* 1—12. — *Evangelium Marci, et Pauli epistolas ad Thessalonicenses.*

*Cum perceperit cæterarum, qvæ in scholis tractantur, disciplinarum prima elementa, acqvisiveritqve sibi eruditionem — minus perfectum certe — sed nihilo minus talem, qvæ in scholis nostris privatis hucusqve vulgo acqvisita fuit, atqve acqviritur; cum appareat, juvenem, qvi ante tot annos, (dum ea essent tempora, ut medioeria qvoqve ingenia tam alta spirare impune possent, ut sine exemplo qvidem sit, qvendam, litteris operam navantem esse repertum, qvin dimissione dignus sit visus) viam litterurum ingressus est: ad mitiores eorum temporum regulas*

var í sumar ad útbíta henni gjefins, enn hefur þó líklega keipt hana, og má af því ráda, ad hann, einsog útgjefandinn sjálfur, hefur álitid hana þarflega almenníngi. Adrir voru kvaddir til, um leid og þeim var feingin bókin, ad skrifa undir skjal nokkurt á dønsku, sem nærri má gjeta ad margur hvur hafi ekki komist nidur í. Enn þad sem af heimsku er tilrádid verdur laungum ad athlæi, og so tókst hjer til: Gjafaranum vard þad á, ad útbíta bókinni helst medal þeirra, sem komnir voru austanúr Rángárvalla-sîslu, og einkum úr Breidabólstadar sókn, af því honum hugsadist ekki, ad þarsem jeg er borinn og barnfæddur, og hefi átt heimili mestalla æfi mína, mundu menn síst þurfa þessconar ritgjørda vid tilad bera kjennslur á mig; jeg vil því hafa rádid honum til, ef høfundur Eineigda-fjølnis, sem ekki er ørvænt, ljeti kaupast til ad semja firir hann slíka ritgjørd þegar fram lída stundir, ad hann þá sendi hana í einhvurja adra átt um landid, hvar menn sídur þekkja mig, so henni verdi heldur gaumur gjefinn. Ad ødru leiti á þessi grein harla lítid skilt vid Fjølnir, og jeg gjæti ekki skilid í,

---

*esse judicandum, qvippe qvi, cum majore severitate uti cæptum est, longius progressus sit, qvam ut redire, et aliud vitæ genus eligere possit; cum eruditionem omni suo patrimonio comparaverit — cum, si non ingenio — singulari tamen et egregia industria omnibus præstet — et, qvod gravissimum est, cum ejus sit vitæ integritatis, ejus morum innocentiæ, ut nemini, sincerrimo probissimove cedat —: non possumus non eum dimissi nomine dignum censere, persvasi, eum, si non vastitate cognitionis, tamen præclaris hisce suis animi dotibus, ordinis sui decus futurum, qvod et sincerrime optamus.*

*Breidabolstad d.* 8. *Junii* 1839.

Tomas Sæmundi.

(L. S.)

hvurnin þad fer ad ſæta adfindni, ſem í Fjølni er um verſl-
unina, (í frjettabálkinum blſ: 12—16) ef jeg væri ekki ord-
inn ſo vanur því, hvurſu menn fara á hundavadi ifir bæk-
ur. Þad er einginn fúſari til ad ſamſinna því, enn jeg:
ad verſlunin eigi ad njóta ſanninda, einsog adrir — enn
jeg held líka menn verdi hvad af hvurju ad fara ad láta ſjer
linda, þó ekki ſje tekid leiſi í búdunum tilad tala um hana
— og þó ad hún ſje ſøgd einsog hún er. Jeg vík ekki
frá nokkru ordi af því, ſem í Fjølni er látid mællt um
verſlunina þá í firra, því hjer er ekki annad enn ſøgd blátt
áfram ſagan, einsog hún gjekk. (Um níár víſu menn ekki
ad fiſkurinn irdi bættur upp til 11 dala þarſem ádur voru
10). Jeg hefi ſagt þad, ſem aldrei ſkal reinaſt ofhermt: ad
um kauptídina hafi hjá mørgum ſídra verid ſkortur á
fleſtri þarfavøru, nema ef hjer er ofgrunnt tekid í ár-
inni, og ad ſkortur hafi verid hjá øllum á þarfavørunni;
enn jeg held óhætt ſje ad fara ad kalla ſkort á einhvurri vøru,
þegar medal allra kaupmannanna, ſem hafa verſlun á ſudur-
landi, eru ekki nema 2 eda 3, ſem gjeta látid hana af hendi
eptir þørfum, medan hæſt ſtendur kauptídar, því þegar ſo
er ordid áſtatt, fer ad verda erfidt ad leita firir ſjer, ad
ſama ſkapi ſem hægð verdur á ad færa fram ſlíka vøru, all-
rahelſt ef margir þurfa á henni ad halda. Enn vera kann
nú, ad mjer hafi ifirſjeſt í því, ad þeſsi ſkortur á þarfavør-
unni væri ekki nema hjá mørgum, þarſem hann kannſkje hef-
ur verid hjá øllum. Jeg hugſadi, tilad minda, þegar þetta
var ſkrifad, ad fá hefdi mátt allar naudſinjar ſínar í verſlun
ſtórkaupmannſins í Reikjavík, enn hefi ſídan komiſt ad raun
um, ad þetta var á annann veg; því, ad jeg ekki fari útfirir
kirkjuſókn ſjálfs mín, þá veit jeg ekki hvørt þeir eru fleiri
hjedan, ſem þar høfdu verslun í firraſumar, heldurenn hinir,
ſem ekki gátu feingid þar alla þarfa-vøru, ſem þeir bádu um,
og ſama mun verda uppá, þó vídar ſje leitad. — Eins held
jeg þad ſje rjett ifirhøfud ad tala (ſom almindelig Sætning)

ad þad verdi ekki tekid, sem ekki er til, og að landinu sje betri eingin verslun, enn sú, semi ekki hefur annad á bodstól: um enn brennivín og óþarfa — því vel gjeta menn ímind: ad sjer, ad þetta kinni ad bera ad höndum, medan kaupmenn, einsog nú er ástatt, hafa aungva lagaskildu, tilad flitja hing: ad naudsinjar lanzins, heldur gjera þad af tómri nád — enn þad var, medal annars, tilgángur bænarskjalsins, (sem ver: id er ad seigja frá, þarsem þessi ord finnast), ad stemma stiga firir því ad so gjæti tilrekist. Enn þegar hin ordin, sem jeg hefi áminnst, um vorubirgdir kaupmanna, 'eru áundan geing: in, verda þessi ekki tekin so, (nema þad eina hrindi ødru), ad eing inn verslunarmanna í Reikjavík hafi haft annad ad bjóda, enn brennivín og óþarfa, einsog Eineigdi: fjølnir er ad berjast vid ad telja trú um. — Þad er enn sønn saga, ad handverksmenn urdu ad flæmast burtu úr Reikjavík, af því þeir gátu þar ekki feingid þad, sem þeir þurftu á ad halda. Enn þad sem Eineigdi: fjølnir seigir um voruhøld kaupmanna eptir kauptíd, og framundir árslok, kjemur mjer ekki vid, því jeg hefi adeins talad um: hvursu ástatt var á kauptídinni, og so er Fjølnir læs, ad hann rennir grun í, ad hjer eru, einsog so vída í þessu nídriti, ósannindin falin undir ifirskini sannleikans, soad lesendurnir láti blekkjast af þeirri álíktun, sem er raung: ad aldrei hafi verid voruskortur í Reikjavík árid sem leid, sirst þar var ekki vorulaust eptir kauptíd, eda undir árslokin. — Hjeradauki eru þad ekki miklar øsgar, þó ad lidinni kauptíd findust í allri Reikjavík, so sem ein tunna af tjøru, og 21 tunna af steinkolum; má af því ráda, ad tjara hafi þá ad minnsta kosti ekki verid útbær, þarsem einn kaggi ad líkindum nædi skamt tilad bera á húsin í Reikjavík sjálfri. Ekki var þad heldur kaupverslaninni ad þakka, þóad timbur væri til eptirad Nordmenn komu med þad híngad, enn þad var 24 Juli ad firsta timburskipid kom frá Norveigi, og ann: ad skipid kom þadan med timbur nokkru sídar. — Enn timb: ureklan ádur í kaupstødunum er minnisstædari þeim, sem voru

þar á ferð um lestirnar, og kunnugart enn að menn þurfi að fræðast um það af Eineigða-fjölni. Enda kjemur mönnum firir lítið, þóað snefjar af einhvurri vöru sjeu til, ef hún annaðhvurt er gjerð so dír, að frágángsmál sje að kaupa, eða það þarf að beigja sig so djúpt til að fá hana, að færstum þikir tilvinnandi.

Það er auðsært, að allt þetta mál um verslunina viðkjemur lángtum heldur þeim, sem voru riðnir við bænarskrána til fulltrúa þíngsins, heldur enn Fjölni, og búið er við hún verði víðar, enn í Eineigða-fjölni, talin til marks um það, hvað rjettorðir við sjeum Íslendíngar, þarsem allur þorri þeirra, sem mark var að í sunnlendínga fjórðúngi, hafði ljeð nafn sitt undir hana. — Enn reiniśt það nú sannara, sem Eineigði-fjölnir og kaupmenn hafa leidt í ljós um vörubirgðirnar í Reikjavík, um það leiti bænarskráin var samin, heldurenn það sem í henni er tilgreint, (hvarum jeg gjet ekki dæmt): þá ber þeis að gjeta, að færstir, sem skrifuðu undir bænarskrána og voru eins hugar í því, sem beðið var um, hofðu færi á að ransaka vöruleifarnar í Reikjavík, heldur urðu þeir að taka það trúanlegt, sem þeir sögðu frá, er þetta gátu hafa ransakað; enn hafi þeim nú ifirsjeśt, má það vel vera að kjenna gáleiśi einhvurs eins eða fárra manna, sem annaðhvurt gjörðu aðsjónina, eða útveguðu skírteini um þetta, og sá færi eins villt, sem hefði slíkt til marks um óráðvendni þeirra, sem að því væru valdir, so sem væri það af ásettu ráði gjert, einsog t: a. m. sá, sem ætlaði, að kaupmenn hefðu vidleitni á, að hafa af mönnum, þó vart verði við misreikníngu í „afreikníngum" þeirra, sem hæglega ber til. — Þetta liggur því heldur í augum uppi, sem það skipti litlu, þegar litið er til bænarbrjefsins, hvurt vöruhöldin reinduśt nokkuð meiri eða minni, því þetta var þó aldrei nema ein af smærri ástæðunum hvurt sem var, sem mæla áttu fram með því, sem um var beðið, og hjer var aðal umtalsefnið. Enn ekki þarf Eineigði-fjölnir, nje aðrir óvinir bænarskrár þeisarar að fagna

því, þó honum reiddi ekki betur af á fulltrúaþínginu enn raunin vard á, því fulltrúarnir eru búnir ad gjefa raun á því ádur, hvad kunnugir þeir sjeu málefnum og þörfum Íslands, og hvad medmæltir þeir sjeu því, ad rímkad sje um verslun okkar; má því vera, ad bænarskráin hafi haft nokkud til síns máls, þó fulltrúarnir ljetu sjer þad ekki algjörlega skiljast; því so framarlega sem kaupmenn vorir eiga ekki neinar skildur ad rækja vid Ísland, og þeim verdur ekki — einsog rauninar samkvæmt er verslunarfrelsinu — gjert ad lagaskildu, ad sjá því firir vörubirgdum, liggur ekki í augum uppi, því frelsi Íslendínga beri ad takmarka, einsog gjert er, til þess ad halda þeim vid. Eda því skildi t. a. m. sveitarmönnum austanúr Rángárvallasíslu þraungvad til, ad verja dírmætasta kafla sumarsins til ferda í adrar síslur, eda sudurifir fjall, af því þeim er meinad ad eiga verslunarstad firir Eiafandi, ef þá er ekki so umbúid á eptir, ad skipaferdir haldist vid til Eirarbakka, og ad þad sje til í Reikjavík, sem þeir þurfa á ad halda, þegar þeir loksins eru búnir ad þreita þángad.

Jeg atla ekki ad fara mörgum ordum um þad, sem á 24—25 bls. er látid mælt um málreglur Fjölnis, þarsem þeir frændur sjálfir, Eineigdi-fjölnir og vitrínguriun fadir hans, valla gjeta komid út óbjagadri klausu. Í þessari sömu greininni, sem ekki er nema 8 línur, er t. a. m.: „ad finna ad vid Sunnanpóstinn um þad" ístadinn firir: ad finna ad því vid, og so frv.; „ótal sjervitska"; first hjer er ekki nema ein „sjervitska", gjetur hún undireins líklega ekki verid ótal (auk þess sem þessi sömu ordin standa úti loptid; so valla verdur fundid, án heilabrota, hvad þeim eigi ad stjórna í klausunni).

Seinasta skíríngargreinin er, einsog só mart annad, ætlud til ad sína hvad Fjölnir sje skreitinn; enn hún er miklu heldur enn einn votturinn um þad, hvursu Eineigdi-fjölnir fer ad tala, og álíka. Hann gjetur ekki komid þessu ódruvísi firir sig, enn ad þad hafi — eptir því sem Fjölni seigist frá —

ordid ad kosta 900 dali ad koma Tístransrímum á gáng, sem hann aptur telst gjeta rekid med reikníngi frá prentaranum; enn þad er hvurntveggja, ad jeg hefi aldrei sagt, ad øllum peníngunum, sem Rentukammerid gaf einum útgjefendanna, hafi verid kostad til ad prenta rímurnar, enda er hægt ad ímynda sjer, (einsog líka var) ad hann hafi lagt fram kostnadinn hinna vegna. Þad er enn, ad vansjed er allur kostnadurinn tilad gjefa út bók, sje greindur til á reikníngi prentarans, þarsem pappír, band, umsjón prentunarinnar og fleira þvílíkt gjetur hleipt fram kostnadinum ad auki, ad því ógleimdu (sem hjer vardadi mestu): ad skáldi sjálfur sást opt á gángi í tagli útgjefandanna um veturinn, og er líklegt þeir hafi einhvurntíma vært á honum hálsinn, milli þess hann var ad „signa sig á bodnar keitunni". Jeg gjeri rád firir Eineigdi-fjølnir hafi ekki sjed reiknínga ifir þad, sem til þessa hefur farid; enn hvad sem eptir hefur verid af þessum 300 dølum um þad úti var, fór ad minnsta kosti sá, sem peníngana hafdi þeigid, tóla lítill heim um vorid. Enn hvad því vidvíkur, ad jeg hafi talid bókina fimm og einum þridjúngi skildíngs dírari, enn hún hafi seld verid, þarsem hún hafi feingist í blárri kápu firir 40 sk. vøruverds, þarsem jeg hafi sagt hana 32 sk. í silfri, þá telst mjer hjer ekki skakka miklu, þegar specian var látin gilda 2 dali 48 sk. vøruverds, sem ad minnsta kosti var eins algeingt, einsog ad láta hana gilda meira — allrahelst í smákaupum og þegar inn var ad taka. Hefur Eineigda-fjølni farid hjer, einsog annarstadar, ad hann sannar of mikid, og sannar þessvegna ekki neitt — (**Qvi nimium probat, nil probat**).

Ekki er þad furda, þó Fjølnir komi vid margskins efni, því bædi er þad, ad Eineigdi-fjølnir leisir sjer þad líka, enn þad er og einmidt edli tímarita, ad fara ordum um þad, sem tímarnir leida í ljós. Allir sem komnir eru til vits og ára, veita nokkra eptirtekt því sem vidber í kríng-

um þá, og leggja einhvurn dóm á efni daglegs lífs — medan ekki er leingra farid — sosem búnadar- og verslunar-efni — adgjørdir næstu embættismanna, og sv. fr. — Fjølnir gjetur ekki sneidt sig hjá því, medan hann er til hvurt sem er, ad láta álit sitt í ljósi um þesshåttar, eptir því skinbragdi sem hann ber á þad, og hann er góds maklegur, ef hann gjetur frædt um einhvur holl sannindi, enn ef honum skjátlast, þá er þeim, sem betur sjá, ætíd innanhandar, ad leida þad í ljós, sem sannara er, og tek jeg, ad því leiti sem til mín nær, þad med þøkkum, því jeg vildi helst þeir væru nógir, sem hefdu gód tøk á ad semja bækur, so jeg gjæti hætt því med gódri samvitsku; enn jeg sannfærist ekki um ifirsjónir mínar, þó jeg sje kalladur vitfirríngur, ligari, og slíkt, einsg Eineigdi-fjølnir hefur gjert, medan hann leidir ekki fleiri røk til þess, enn ennþá eru framkomin. Enn þarsem hann á seinasta bladi fer so feldum ordum um mig, sem einhvur kinni ad taka sosem gullhamra mjer til hugnunar, þá er jeg skildur ad afbidja mjer allt þesshåttar af slíkum manni, sem høfundur Eineigdafjølnis er; því hvurnin sem þeim er gjefid um hól hans, sem hann hefur lagt sig til ad smjadra firir í ritlíngi þessum, þá hefi jeg þann skilníng, ad halda þann mann med øllu ómerkann, þegar hann er ad hæla, sem ekki hefur vit á, ad finna ordum sínum skinsamleg røk, þegar hann er ad finna ad. Hann telur menn hafa búist vid meirn af mjer, enn fram er komid, enn jeg má játa, ad mjer var gagnstædt háttad. So einskis nítar sem þær ritgjørdir eru, sem mjer hafa borist í hendur eptir hann til þessa, so hafdi jeg ekki búist vid þeim betri, og mjer hefdi vel gjetad skilist þær irdu enn vesælli. Jeg vissi hann mundi ekki — án þess ad fara í smidju — gjeta látid meira vit í ritgjørdir sínar, enn hann sjálfur hafdi rád á. Jeg þekkti hjá honum þad gáfnalag, þá kunnáttu og smekk, ad mjer gat vel skilist, hann irdi í vísnda-

efnunum, þegar so bæri undir, vidlíka á ad líta, einsog naut sem er ad ólmast í rosi — øskrar — umhverfir jørdunni og verkar sig — enn kjemur þó aungvu áleidis; jeg vissi, ad hjer var reir af vindi skjekinn, og mjer gat því ekki komid undarlega firir, þó úr honum irdi einn af þessum firirtaks spjáttúngum, sem allir stara á — horfa áeptir og hlæa ad, eda kjenna í brjósti um, enn sjálfur verdur ekki var vid nein missmídi á háttum sínum; jeg vissi hann mundi hafa gripid til pennans, tilad hefna á Fjølni díralækníngabókarinnar — tilad ávinna sjer skildíng, er hann gjæti látid í skuldir sínar, og tilad láta sjá á prenti nafnbótina, sem hann hafdi feingid sjer; og því var mjer trúlegt: ad hann svífdist ekki vid ad setja saman ósannindi, og breida skílu ifir sannleikann, svad einfaldir mættu í villu leidast, og ad hann, einsog rakkarnir, ímist ljeti sìga sjer af ødrum, eda sleikti hrákana þeirra, svad vidbjódur væri á ad horfa. Jeg kjemst ei hjá því, ad hafa fram þessar sakargiptir, so þad í þessu einsog ødru, komi í ljós, sem jeg álít sannast, hvursu íllt og óvidurkvæmilegt sem mjer þikir þad, ad snerta vid sidferdisháttum manna, þarsem um vísinda efni er ad ræda Jeg vorkjenni høfundinum miklu fremur, enn jeg øfundi hann af þeirri hrósun, er jeg mundi síst kjósa mjer til handa — ad hafa komid saman ritlíngi, sem heimskíngjar einir finna vit í, og bófum einum þikir tilkoma. Eineigdi: fjølnir — hvada mark sem hann ber á titilbladinu — er fortakslaust þad ljelegasta rit, sem birzt hefur á íslenzkri túngu, hvurt sem litid er til togans, sem hann er spunninn af — tilgángsins, sem med honum var hafdur — adferdarinnar, sem í honum er brúkud — eda kunnáttunnar, sem hann ber med sjer; og jeg vona, ad einginn virdi mjer þad til litilmennsku, þó þad kinni ad verda í undandrætti firir mjer, ad taka mig opt í forsvar fyrir slíkum ritgjørdum.

Enn hvad því vidvíkur, ad jeg hafi hagad ritgjørd-

um mínum ødruvísi, enn vera bar, eda ad Fjølnir sje — einsog annarstadar kvedur ad ordi — „óeirdarrit", „níd-rit" og þessu líkt; þá er þad kunnugt, ad smjadrararnir hafa þad lag, ad beita slíkum vopnum, og þeim tekst opt, ad vinna ødrum med þeim tjón eda sómahnekkir; Eineigdi-fjølnir ber mjer á brín, ad jeg innprenti mønnum, ad isirvøldin sjeu til einskis, þarsem ord mín einmidt huíga til hins gagnstæda: „ad isirvaldanna verdi ekki án verid". — Jeg tek þad ekki firir nád, þó ritlíngum mínum hafi ekki verid meinad prentunar enn sem komid er, því jeg higg þá gjefna út í fullkomnu lagafrelsi, enda beidist jeg aungrar nádar, ef jeg ekki veit ad halda mjer innan þeirra takmarka, sem løgin hafa afmarkad, þó þau væru aldrei so þraung. Jeg held ad bædi meigi Íslandi og stjórninni vera þægd í, ad annad eins rit og Fjølnir sje til, því so sannarlega sem stjórnin lætur sjer annt um, ad efla framfarir og upp-lísíngu landsins, sem eínginn gjetur dulist vid, gjetur henni ekki þótt til þess koma, ad Íslendíngar sjeu sosem skin-laus og ómálga dír — hugsunar- og afskipta-lausir um hagi sjálfra sín; enda gjetur fólkid, þarsem þad er farid ad hugsa og tala, gjesid stjórninni marga nitsamlega oendíngu. Fjølnir tekur til á því, sem hann atlast til menn kannist vid, ad bókmentirnar sjeu eitthvurt øblugasta medalid tilad efla mentun og framfarir landa og lída, og ad þetta med-alid meigi ekki leingur láta ónotad hjá oss, heldurenn ann-arstadar. Hann vill koma mønnum til medvitundar um þad, sem til almennrar hagsældar horfir, því einsog hvur einstakur í sínu lagi hefur sitthvad á hendi, sem ødrum kjemur ekki vid, so vardar þad miklu, ad hvur einstakur komi til þeirrar vidurkjenníngar líka, ad þad sje aptur ann-ad, sem okkur komi øllum vid, og gjeri okkur alla ad einni þjód, sem búum í sama landinu. Enn þó þad nú sæti mestri umhugsun manna, sem næst þeim er, þá er þetta svidid þó so lítid, ad þeim ætti ad lærast, ad gjeta

litid útfirir þad áſtundum, og hafa adra eins ſkjemtun af ad vellta því firir ſjer, ſem til allra nær — fá ſkilníng um, hvurſu því er firirkomid — láta ſig nokkru ſkipta, hvurſu um þad fer, eda ad minnſta koſti, ad halda ſjer þad ekki med øllu óſkillt. Þeſsi almennu málin hefur Fjølnir viljad gjera ad umtalsefni, og hann gjetur ekki farid ødruvíſi ad því, enn ad leitaſt vid, einsog hann hefur ſkilníng til, ad komaſt nidur á því, hvad í þeſsum efnum halda meigi ſannaſt, og leggja þad til, ſem hann heldur ſkinſamlegaſt og bezt henta eptir áſigkomulagi voru. Enn þau rit, ſem þeſsa vidburdi hafa, gjeta aldrei ordid ad níðritum. Níds-ritarinn hagar máli ſinu einsog gjed hans bídur honum, enn ſá, ſem ſannleikans leitar, verdur ad fara þángad, ſem rannſóknin leidir hann. Af þeſsum røkum gjetur, ef til vill, ſo farid, ad Fjølnir verdi áſtundum á ødru máli, enn embættismennirnir, eda adrir málsmetandi menn, er hann talar, hvar ſem í hlut á, einsog honum ſíniſt rjett vera, því þegar þad verdur ekki varid, ad øllum gjeti ifir-ſjeſt, er allt undir því komid, hvad hvur hefur til ſins máls. — Eins gjetur hann ekki heldur lofad nema þad, ſem hann gjetur ſannfærſt um ad lofsvert ſje, og hefur hann af því ordid ad fara á mis vid vináttu margra, því mønnum er ſo varid, ad þeim þikir gott lofid, og rithøfundar hafa hjer, einsog annarſtadar, ordid ad vinna þad til hilli leſendanna, ad vera óſparir á því vid okkur áſtundum, og villt med því þekkíngu vora á ſjálfum okk-ur, ſem eínginn má miſsa.

Øll Tímarit, ſem nokkurt vit er í, verda ad gjera eitt af tvennu: annadhvurt ſeigja þau frá því, ſem vid-ber, og til fráſagna er fallid, enn leggja aungvann dóm á þad — láta tímana vellraſt einsog verkaſt vill, og taka ſjer allt ſem ljettaſt — ern helſt medmællt því, ad allt ſje vid þad ſem verid hefur, af því þad er vanda- og

kirkjhafnar-munst. Þessi tímarit mætti kalla „frjettarit", af því frjettirnar eru hjer adalefnid. — Enn til eru líka rit annarar tegundar, (þó hvurutveggju komi saman á takmörkunum) sem ekki láta sjer eins hugad um, ad segja frá vidburdunum, einsog ad komast í skilníng um þá, og bída þá, og mætti kalla þau „rannsóknar tímarit", og af því rannsóknin lángum leidir til nírra uppgötvana, hættir þeim til ad finna missmídi á því sem er, og vilja koma efnum manna í annad horf, er þeim virdist betur henta — og greida níum hugmindum götuna. Frjettaritin verda ekki gjefin út, nema þar sem so á stendur, ad mönnum berist hæglega frjettirnar, og hægt sje ad koma þeim frá sjer aptur. Klausturpósturinn, og Sunnanpósturinn eptir hann, voru einkum frjettarit, og víst er brín þörf á því, ad þesskonar tímarit irdu hjer aptur á stofn sett. Fjölnir stód ekki so ad, ad hann gjæti ordid frjettarit, og verdur honum ekki gjefin sök á því, þó þad vanti; hann gat ekki sadt nírúngagirnina eptir frjettunum, því hann gat ekki komid nema einusinni á ári, og hann átti þá ekki annars kost, enn ad taka til umtals smátt og smátt einstöku efni tímans, sem mestu máli skiptir, hvursu farid er med; hann berst vegna hugminda, enn á ekki í höggi vid menn, nema ad því leiti, sem þeir kunna ad vera vid mál hans ridnir. Medölin hefur hann valid eptir þeirri þekkíngu, sem hann ber til sjúkdómanna, og raunin verdur ad skjera úr hvurt þau sjeu of sterk, einsog óvaninn veldur því ad menn hneigslast á þeim; þad var ásetníngur hans í öndverdu, ad vekja menn af blundinum, enn þá vertur hann líka ad hafa so hátt um sig, ad þeim gagnist ekki ad sofa. Jeg hefi enn þá sannfæríngu, ad Ísland þurfi ad halda á þesskonar riti, sem Fjölnir er — medan þad hefur ekki völ á ödrum betri — þó hann máske verdi ad leggja árar í bát, og bera harm sinn í hljódi ifir því, ad mentun okkar sje enn oflítil til ad skeita um þau, einsog fidudum þjódum er tídt — og ad allar ritgjørdir eigi núna

hjá ofs firir meiri hilli að verða, enn þær, sem fara orðum um lanzins gagn og nauðsinjar.

Það er líka von, þó lítið hafi orðið um framfarir okkar Íslendínga, því þeir hafa aldrei verið margir, sem lagt hafa þá rækt við okkur, að útbíta okkur fróðleiknum. Hjer er so tvísínt um launin, að þeim fáu, sem um það voru færir, þótti skjaldan firir því hafandi, að kosta sje og fjøri tilað auka þekkíngu sína, og tilað verða øðrum að gagni, með því að koma á gáng þarflegum ritgjørðum. Enn þó sá eigi iaungum erfiðt uppdráttar, sem einhvurju nitsamlegu vill koma áleiðis, er honum það samt nokkur umbun, að þeir verða optast á hans máli, sem vitrir eru og góðgjarnir, eða að minnsta kosti unna honum sannmælis; en beri af því, meðan hans nítur við, gjetur það verið honum hughreistíng, að hafa firir munni sjer þessa grafminníngu, er Holberg setti sjálfum sjer:

Maaskee i Graven naar forraadnet er hans Krop,
Maaskee naar ved hans Død al (Avind) holder op;
Man slaaer paa anden Stræng — i anden Tone spiller,
Man seer med Øine det man nu ei seer med Briller.

---

Ritlíngur þessi kjemur á prent laungu seinna enn margur mundi hafa viðbúist; enn það ber til þess, að þær stundir eru mönnum leiðastar, er þeir verða að sitja á tali við slíka heimskíngja, sem Eineigði-fjölnir er; enn þó er hinu heldur um að kjenna, að ritlíngurinn var í öndverðu ætlaður til að birtast í næsta ári Fjölnis, enn með því óvíst er Fjölnir komi á næsta sumri, gat hann ei beðið eptir því, og er hann nú að fá hjá Cand: philos: H. Johnsen í Reikjavík sirðra, og fjórðúngs-lækni E. Johnsen á Akureiri nirðra, firir 16 sk. Þeir sem keipt hafa 5ta ár Fjölnis taka hann ókeipis.

Breiðabólstað í Nóvember 1839.

Tómas Sæmunzson.

# Leidrjettíngar.

---

Blſ: 4, línu 34 hvar les hvur — blſ: 16, l: 21 hanu l: hann — blſ: 18, l: 4 þikir l: þikja. — l: 20, hefur gildar, l: hefur átt gildar — blſ: 20, l: 29 úrſkrifaſt l: útſkrifaſt — blſ: 21, l: 8 prjedikunarlefid l: prjedikunarleifid — l: 34, búinu l: búinn — blſ: 24, l: 15 veſsum l: þeſsum — blſ: 25, ſúka l: ſlíka — blſ: 26, l: 32 *perfectum* l: *perfectam* — blſ: 30, l: 17 gjeta l: gjæta — blſ: 31, l: 21 frændnr l: frændur

---

